# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, JÚNÍ 1898. Nr. 4.

## Ósiðir við helgar athafnir.

Eftir séra Björn B. Jònsson.

Maðr, sem kynnzt hefir siðum hérlends kirkjufólks og verið hefir við kirkjulegar athafnir með því, finnr til þess með sorg, hversu oss Íslendingum er ábótavant í framgangsmáta vorum við helgi-athafnir vorar. Eitt af því marga, sem vér ekki höfum kunnað, er að koma myndarlega og smekklega fram á samkomum. Kirkjulegar samkomur, eins og allar aðrar samkomur vorar, hafa víðast verið á mjög ófullkomnu stigi að því, er snertir hina ytri hegðan fólksins. Þetta er nú reyndar að einhverju leyti að lagast, einkum í bœjunum, þar sem kirkjulegar samkomur eru tíðar og menn hafa æfzt í kurteisi og góðum siðum. En allt of víða eru guðrœknis- og helgisamkomur vorar í sorglega bágu ástandi að því, er snertir hegðan fólksins, sem tekr þátt í þeim. Það ætti þó sannarlega að vera löngun hvers kristins manns, að samkomur þær, sem guði eru helgaðar og eiga að vera honum til dýrðar, fari í alla staði sómasamlega fram. Þegar þess er minnzt, að í hvert sinn sem maðr kemr í drottins hús eða þangað, sem samfundir guðs og mannanna eru haldnir, er maðr gestr guðs, kominn í heimboð til hans og að hann sjálfr tekr þar á móti manni, þá er auðsætt, hvernig það eitt má sœma að hegða sér svo, að það sé samboðið þeirri lotning,

sem guðs heilagleik ber. Hugsum oss, með hve mikilli lotning og hœversku vér myndum ganga fyrir jarðneska stórhöfðingja. En þegar vér komum í guðs hús, erum vér leiddir í höll, sem dýrðlegust er allra halla, og fram fyrir konung konunganna. Hvort sœmir oss þá ekki að koma þangað og vera þar með lotningarfullu hugarfari og hœverskum framgangsmáta? Nú langar mig til að mega benda á nokkur atriði í sambandi við kirkjulegar athafnir vorar, sem mér virðist að lagfœra þurfi.

Eitt af því fyrsta, sem vekr eftirtekt vora, þegar vér komum á guðsþjónustustaði safnaðanna, einkum úti á landsbyggðinni, er sú óregla, sem á sér stað áðr en byrjað er. Fólkið kemr seint og er að smátínast að löngu eftir að hinn ákveðni tími til að byrja er kominn. Meðan á þessari bið stendr eru menn í smærri eða stœrri hópum ýmist úti eða inni í kirkjunni að rœða saman um allskonar efni: bjargræðishorfur og uppskeru, naut og fé. Aðrir rœða hina nýjustu viðburði eða reka ýmiskonar erindi hver við annan. Sumir sitja í kirkjunni og lesa blöðin, sem þeir þá, ef til vill, hafa fengið með ferð frá pósthúsinu. Alltaf er fólkið smámsaman að tínast að, og loks er svo guðsþjónustan byrjuð. Þegar prestrinn eða djákninn fer að lesa kórbœnina, verðr ys og þys, því þá fyrst kemr margt af fólkinu inn og ryðst til sæta sinna. Á þennan andlausa og leiðinlega hátt byrjar guðsþjónustan, og það dregr einatt úr hátíðleik allrar athafnarinnar. Sjálfr prestrinn getr ekki verið í „réttum anda“ og aðrir þá ekki heldr.

Í staðinn fyrir þetta ætti allir endilega að kappkosta að koma nákvæmlega á tilteknum tíma. Og þegar í kirkjuna er komið, ætti hugir allra tafarlaust að snúa sér að hinu heilaga starfi, sem fyrir liggr. Hver maðr ætti hiklaust að ganga til sætis síns og heilög þögn og alvara ríkja yfir öllu. Með andlegum hugleiðingum með sjálfum sér ætti svo hver og einn að búa sig undir guðsdýrkanina. Það er fagr siðr og ætti hvervetna að vera viðtekinn, að þegar maðr kemr inn í guðshúsið og gengr til sætis síns, hvort heldr það er áðr en tekið er til eða eftir, þá hneigi hann höfuð sitt og gjöri bœn sína. Þetta gjörir bæði mann sjálfan og aðra móttœkilegri fyrir áhrif guðsþjónustunnar.

Einn ófyrirgefanlegr ósiðr hjá oss Íslendingum er umgangr sá, ráp út og inn, sem margir gjöra sig seka í meðan á guðsþjónustunni stendr. Þetta truflar hugi þeirra, sem eru að taka þátt í guðsdýrkaninni, og hefir ósegjanlega ill áhrif á þann, sem stýrir athöfninni eða prédikar. Eg held samvizkusömum presti verði ekki gjört annað meir til skapraunar en það að glepja fyrir honum með háreysti eða umgangi meðan hann er að prédika guðs orð það, sem honum liggr á hjarta. Slíkt endalaust ráp gjörir prestinum nálega ómögulegt að prédika og áheyrendunum ómögulegt að njóta orðsins. Umgangr eftir að guðsþjónusta er byrjuð ætti alls ekki að þolast nema að því leyti, sem hann í einstökum tilfellum getr verið alveg óhjákvæmilegr. Þeir, sem til kirkjunnar koma eftir að tekið er til, ætti að varast að glepja fyrir nokkrum þá þeir ganga inn. Helzt ætti þeir að ganga inn undir söng eða forspili orgelsins. Meðan stendr á bœnagjörð eða þjónustunni fyrir altarinu ætti enginn að ganga inn, heldr bíða í forkirkjunni þar til breyting verðr á í guðsþjónustunni.

Enn er eitt, sem lagfœrast ætti hjá oss. Það er hluttaka safnaðarins í guðsþjónustunni. Menn eru yfir höfuð mjög tregir til að sýna það í nokkru, að þeir sé með í því, sem fram fer Tökum til dœmis sönginn. Það er ekki nema í örfáum kirkjum safnaða vorra, að um nokkurn verulegan *safnaðar*söng sé að rœða. All-víðast er það þannig, að fáeinir menn standa einhversstaðar sér og syngja, en allr þorri fólksins að eins horfir og hlustar á. Helmingrinn af söfnuðinum er salmabókarlaus í kirkjunni. Auðvitað geta ekki allir sungið, en miklu fleiri geta það að einhverju leyti en gjöra. Og öllum ætti þó að vera mögulegt að halda á sálmabókinni og segja í huga sér, ef ekki syngja, orðin, sem sungin eru. Söngrinn er lofgjörð til drottins og bœn stýluð til guðs,og það er sýnilega ósamboðið bæði guði og söfnuðinum, að fáir menn að eins framkvæmi það, en allr þorri fólksins komi þar hvergi nærri. Það er að sönnu sjálfsagt, að nokkrir þar til hœfir menn myndi sérstakan söngflokk, sem stýrir söngnum. Því er stundum haldið fram, að þessir fáu æfðu söngmenn ætti einir að syngja, því þá verði söngrinn fullkomnastr að íþrótt. En þess ber að gæta, að enda þótt kirkjusöngrinn eigi að vera sem fegrstr, þá er þó íþróttin ekki áherzlu-

atriðið. Menn fara ekki í kirkju aðallega til að dást að íþróttinni hvorki í söng eða ræðu, heldr til að dýrka drottin og heyra hið einfalda orð hans prédikað. Það er annars víða í kirkjum hér í landi og víðar, að „söngflokkarnir“ líkjast mest leigðum íþróttarmönnum. Léttúðin og kæringarleysið skín út úr þeim eins og gjörist í leikhúsum. Þennan „ósið“ hérlendra manna eigum vér að varast eins og vér eigum að læra af þeim hina mörgu góðu siði, sem þeir hafa umfram oss. Sannleikrinn er, að þeir, sem hafa þá köllun fengið öðrum fremr, að frambera drottni bœnir, þakklæti og lofgjörð í helgum sálmasöng, hafa hlotið heilaga köllun. Til þess ætti að vera valdir að eins sanntrúaðir og heithjartaðir menn, menn, sem leggja allan hita hjarta síns í sönginn og láta tóna sína stíga upp úr djúpi náðarþyrstra sálna sinna. Þá fyrst geta þeir knúð fram samskonar tilfinningar úr hjörtum annarra og greitt bœnarandvörpum syndugra manna leið upp að náðarstól drottins.

Tregðan hjá söfnuðunum til að taka þátt í guðsþjónustuathöfnunum kemr einnig einatt í ljós í sambandi við bœnirnar, sem fluttar eru í kirkjunni. Það ætti þó að vera öllum, sem annars trúa, unnt að sýna hluttöku í bœnagjörðinni, því til þess útheimtist alls engin íþrótt. En það sýnist vaka fyrir svo ótal mörgum, að í kirkjunni sé þeir að eins sem áheyrendr og áhorfendr. Þá er þó kristileg guðsþjónusta fyrst eðli sínu samkvæm, þegar allir biðja þar með einum anda og einum munni. Og hin ytri hegðan fólksins er engan veginn þýðingarlaus í sambandi við tilbeiðslu hjartans. Þegar allir sitja hnakkakertir í sætum sínum og glápa á prestinn, sem er að bera fram bœnirnar á stólnum eða fyrir altarinu, eins og þar sé um athöfn að rœða, sem þeim að eins komi við að því leyti, að þeir taki eftir og horfi á, þá verðr sú bœnagjörð oftast að litlum eða engum notum fyrir söfnuðinn, naumast annað en tómt form, dauð seremonía. Allr söfnuðrinn á að sýna það, að hann sé að biðja, hver maðr að beygja sitt höfuð með heilagri lotning. Þá skal það sannast, að hinn innri bœnarandi fær margfalt betr notið sín og fleiri og fleiri bœnarstef fara að stíga upp frá hjörtunum. Þegar prestrinn, sem er að bera bœnirnar fram fyrir hönd safnaðarins, finnr, að hann er einn í því verki, að hugir fólksins fylgja honum ekki upp bœnarstigann, þá er eins

og hugr hans sjálfs komist ekkert heldr; hann finnr, að hugr sinn er dreginn niðr til jarðar af hugum fólksins í kirkjunni. Það er áreiðanleg kenning, að hugir mannanna ná saman; prestrinn er því að miklu leyti á valdi safnaðarins bæði í stól og fyrir altari. Söfnuðrinn þarf því allr að vera með og *láta sjást*, að hann sé það. Það er ekki að eins ósiðr fyrir kristna menn að taka ekki bæði sýnilegan og ósýnilegan þátt í bœnagjörðinni, heldr líka synd—vanrœktarsynd.

Eitt skal enn tekið fram í sambandi við guðsþjónustusamkomurnar. Þegar úti er guðsþjónustan, má oft heyra fólkið byrja á hrókarœðum og allskonar hjegómlegu samtali undir eins í kirkjunni. Sumir ganga aftr á móti tafarlaust burt og líta ekki við nokkrum manni. Hvorugt þetta á eiginlega að eiga sér stað. Að aflokinni messugjörðinni fer vel á því, að dýrkendrnir, með mestu rósemi og friði, taki höndum saman og bjóði hver öðrum góðan dag og góðar stundir eða sýni önnur kærleiks- og vina-merki um leið og gengið er úr kirkjunni. En einkanlega ætti safnaðarmennirnir að láta sér annt um að fagna hjartanlega þeim utansafnaðarmönnum, sem þeir sjá viðstadda, og bjóða þeim að koma aftr til kirkjunnar. Það hefir margan manninn dregið að kirkjunni að finna þann kærleiksríka anda og bróðurhug, sem þar býr, eins og það líka hefi fælt margan frá, þegar hann hefir ekki fundið neinn hlýjan hug eða vinarhönd, þá hann hefir leitað á fund hinna kristnu manna í kirkjum þeirra.

Auk hinna almennu samkoma í kirkjunum fara helgar athafnir stundum fram á heimilunum. Í sambandi við að minnsta kosti eina tegund slíkra athafna er að rœða um óþolandi ósiði. Það er í sambandi við jarðarfarirnar vor á meðal. Auk þess, sem þær athafnir fara víðast fram mjög ólaglega hjá oss Íslendingum, hefir verið settr í samband við þær einn mjög óviðkunnanlegr siðr. Það er nefnilega rótgróinn þjóðarsiðr hjá oss, að hve nær sem einhver framliðinn er jarðaðr, þá er slegið upp stórkostlegri matarveizlu í sambandi við útförina. Eg hefi verið við jarðarfarir í öllum aðal-byggðum Íslendinga hér fyrir vestan og séð, að allsstaðar þar á þessi ósiðr sér stað. Oft og tíðum er stór-hneyksli að þessum matarveizlum. Það er ákveðinn einhver tími, er jarðarförin skuli fram fara frá heimili

hins látna. Aðstandendrnir hafa hinn mesta viðbúnað, draga að sér vistir, og meðan lík hins látna ástvinar er að stirðna á börunum er fólkið, sem annars er fullt af sorg og söknuði, að stríða við brauðgjörð og annan matartilbúning. Svo þegar stundin kemr, að sorgarathöfnin skuli fram fara, er byrjað með því að fólkið, sem komið er að úr öllum áttum, er sett við veizluborð; og þessi athöfn, sem annars ætti að vera alvarlegust, rólegust og hátíðlegust allra athafna, gengr fyrst og fremst út á holdlega nautn. Veitingarnar standa stundum yfir fleiri klukkustundir, því ekki er hætt fyrr en allir, sem komnir eru til að vera við útförina, hafa fengið „góðgjörðir". Þetta heitir að gjöra „heiðarlega útför" hins látna. Meðan á þessu matarstappi stendr eru menn að rœða um hitt og þetta. Þeir, sem fyrst komust að matarborðinu, eru að ganga aftr og fram úti fyrir eða koma sér einhvern veginn fyrir inni í þrengslunum. Áðr en búið er að sjá öllum fyrir veitingum er mönnum farið að dauðleiðast, og oft er þá komið í ótíma með athöfnina sjálfa. Geta má nærri, hve eðlileg og sorginni samkvæm hún þá verðr.

Þessi ljóti ósiðr, sem eg svo kalla matarstapp þetta við jarðarfarir, er vafalaust að sumu leyti leifar gamals heiðindóms og á rót sína að rekja til erfidrykkjanna gömlu. Önnur orsök þessa vana kann að vera sú, að fyrr á tíðum, þegar fátœktin var mest á Íslandi, var fjöldi fólks beinlínis matarþurfandi, og var þá útför dáinna manna *heiðruð* með því að gjöra fátœkum aumingjum gott við jarðarförina. En sem betr fer erum vér ekki lengr heiðnir menn, né svo bágstaddir, að vér ekki eigum mat heima til að seðja hungr vort; og ætti því þessi hálfheiðni siðr og leifar hins íslenzka vesaldóms sem fyrst að leggjast niðr. Þær stundir, þá vér berum elskaða ástvini burt af heimilum vorum út til grafarinnar, eru sorgar- og tára-stundir. Þá er miklu meiri ástœða til að fasta heldr en til að lifa í holdlegum listisemdum til matar og drykkjar.

Á þeim stundum ætti hugir allra að dragast burt frá hinu holdlega og tímanlega og hvarfla til hins andlega og eilífa. Þegar gröfin lykst yfir dáið hold vina vorra, stöndum vér við landamæri eilífðarinnar og horfum á eftir þeim til himins. Hina látnu *heiðrum* vér bezt með hátíðlegri og heilagri þögn

og með því að láta anda vorn dvelja á lífsins löndum langt burt frá heimsins hégóma og holdsins nautnum. Ekkert ætti að draga úr hátíðleik hinnar helgu skilnaðarstundar. Þar sem einhverjir fella tár yfir dánum ástvini,ætti hver hljómr að þagna og heilög ró að hvíla yfir öllu. Það má breyta hinni sáru saknaðarstund í guðlega sælustund, þegar þeir, sem syrgja, fá að syrgja í heilögum friði og fá að gráta sinn harm við hjarta hins himneska huggara án þess að truflast af heimsskarkalanum eða hinum lægri hvötum eðlis síns—holdsnautninni. Smámsaman lærum vér vafalaust að jarða vora dauðu með meiri lotning, rósemi og heilagleik. Þegar vér verðum meir *andlega* sinnaðir, þolum vér ekki lengr hina „*holdlegu* hyggju", sem birtist í ósiðunum við útfarir framliðinna hjá oss.

Hér hafa verið nefndir nokkrir ósiðir í sambandi við þær athafnir, sem eiga að vera heilagar og guðlegar. Væri ekki gjöranda að hugsa betr um hin einstöku atriði, sem bent hefir nú verið á? Og skyldi hinum einstaka manni, sem línur þessar hefir lesið, lítast að gjöra það, sem í hans valdi stendr til að útrýma öllum ósiðum, en prýða guðsþjónustur vorar og helgar athafnir með lýtalausu framferði guði til dýrðar, þá blessi drottinn þann mann og gefi honum himneskan fögnuð í sálu sína.

---

## Þýðing þess og gagn að vera meðlimr kirkjunnar.

Eftir E. Skavlan, prest í Norvegi.

Úr *Luth. Kirketidende*. Snúið hefir séra Friðrik J. Bergmann.

---

4. Þegar ræða skal um þýðing kirkjunnar fyrir einstakinginn, verðum vér enn fremr að benda á eitt, sem næsta þungt er á metunum. Það er starf kirkjunnar á líknarverkanna svæði. Hér hefir kirkjan fengið frá drottni sínum bæði boð hans og eigið dœmi til eftirbreytni. Hér hefir kirkjan næsta víðlent, vér gætum sagt nærri takmarkalaust svæði fyrir starfsemi sína. Hvílíka þýðing hefir þessi þjónusta kirkjunnar, starfsemi hins þjónanda kærleika gagnvart hverjum einstaklingi! Næst gæti það legið að hugsa nú um, hve mikið er í það

varið, þegar kirkjan kemr með hjálp sína til hins líðanda einstaklings, hvort sem nú þjáningin er líkamleg eða andleg. Hvílík áhrif hefir það eigi, að hinn líðandi einstaklingr finnr hinn sterka, hlýja straum kærleikans frá hinum öðrum einstaklingum leggja inn til sín! þessi áhrif kirkjunnar á einstaklinginn er ekki unnt að meta of hátt.

Oss er líka kunnugt orð af vörum frelsara vors, sem hljóðar svo: „Sælla er að gefa en þiggja". Orð þetta mætti setja sem fyrirsögn fyrir allri líknarstarfsemi kirkjunnar. það bendir oss á hina dýpstu og blessunarríkustu þýðing, sem starfsemin í kærleikans þjónustu hefir, þau aftrverkandi áhrif, sem það hefir á hið andlega líf einstaklingsins, þegar hann fer sjálfr að taka þátt í vinnunni, verðr starfandi maðr í þjónustu kærleikans.

Kirkjan vill, að allir, sem heyra henni til, taki þátt í þessu. það er svo mikið, sem gjöra þarf. það þarf svo margar hendr. „Uppskeran er mikil, en verkamennirnir fáir. Biðjið því herra uppskerunnar, að hann vilji senda verkamenn til uppskeru sinnar." Og þegar kirkjan kallar á börn sín til þessarar starfsemi, getr hún með réttu sagt til hvers einstaks: „Kom þú og byrja! það er eins nauðsynlegt fyrir sjálfan þig eins og fyrir þá, sem hjálparinnar þurfa. Sjálfr munt þú bera mest úr býtum!" Vér þurfum ekki að dvelja lengi við þetta atriði. En vér viljum slá því föstu, að kirkjan einnig í þessu hefir mikilsverð og blessunarrík áhrif á einstaklinginn. það lætr hið andlega líf einstaklingsins ná miklu meiri blóma. það ber ávexti fyrir hið andlega líf hans: meiri og öflugri kærleika til hins himneska föður vors. Og látum oss um leið leggja áherzlu á þetta: þeim mun fleiri starfandi, lifandi, áhugasöm börn sem kirkjan eignast, þeim mun meir eykst hið andlega lífsafl allrar kirkjunnar. því hér eru líka aftrverkandi áhrif: frá einstaklingnum yfir á kirkjuna.

En sé því þannig varið, að einstaklingarnir hafi aftrverkandi áhrif á kirkjuna, ætti það að minna oss alla á ábyrgð vora og skyldur í þessu tilliti. Ef lifanda fylgi einstaklinganna getr haft endrlífgandi og uppbyggjandi áhrif á kirkjufélagið, hlýtr einnig á hinn bóginn sljóleiki og áhugaleysi eða jafnvel lítilsvirðing einstaklinganna að hafa eyðileggjandi, veiklandi áhrif

á félagið. Og að þessu leytinu hafa börn kirkjunnar oft og einatt syndgað stórlega. Fyrst hugsum vér þá um öll dauðu börnin, sem til eru innan allra kirkjufélaga. Þau eru hið sama fyrir kirkjufélagið og visnu, þurru greinarnar fyrir tréð; þær skemma tréð og skaða það.

En fyrir utan hin dauðu börn kirkjufélagsins ber það einnig í sér ýmsar ólíkar *andans stefnur;* áhangendr þeirra eru kirkjunni, sem þeir heyra til, vanalega til tjóns og niðrdreps. Látum oss í stuttu máli benda á ýmsar af þeim.

Í sögu kirkjunnar bæði á allra-elztu og á síðustu tímum hefir sú andans stefna gjört vart við sig, sem gjörir þá óréttlátu og ómögulegu kröfu til hins jarðneska kirkjufélags, að í því skuli að eins vera sanntrúaðir menn. Þegar nú áhangendr þessarar andans stefnu sjá, að hin sýnilega kirkja hefir í skauti sínu ýmsan óhroða, þykir þeim slík kirkja öldungis óhafandi og segja: „Farið út úr Sódóma! Yfirgefið Babel!“ Slíkar raddir létu til sín heyra í fornkirkjunni; þær komu fram aftr á siðabótartímanum, og þær láta til sín heyra þann dag í dag á meðal vor.

Það er ekki nauðsynlegt að gjöra nákvæma grein fyrir þeim misskilningi, sem felst í þessu. Þeir, sem þannig tala, gleyma líking frelsarans um illgresið meðal hveitisins. Þeir gleyma líka líkingunni um fiskinetið, sem safnar allskonar fiskum í sig, góðum og vondum, þegar það er dregið gegnum hafið. Svo gleyma þeir líka öðru. Drottinn hefir sagt þeim, sem á hann trúa: „Þér eruð salt jarðar.“ Ef einhver telr sjálfan sig heyranda saltinu til, breytir hann á móti orðum drottins, þegar hann vill segja skilið við það, sem hann á að selta; hvaðan á félagið þá að fá afl til hreinsunar og viðrhalds?

Vér eigum hœgt með að skilja, að hjá börnum þessarar andans stefnu fái ekki gagn og þýðing kirkjunnar að njóta sannmælis. Slík andans stefna blæs frá sér megnri óbeit gegn kirkjunni. Það er leitazt við að sá vantrausti og reynt að fjarlægja hjörtun frá henni.

Vér viljum benda á aðra andans stefnu, sem neitar nytsemi þess, að heyra kirkjunni til. Að sönnu ekki vegna þess, hve sýnilegu kirkjunni sé áfátt og ábótavant í mörgu, heldr af

þeirri ástœðu, að hún skoðar sérhvert félag að öllu leyti ónauðsynlegt og skaðlegt.

Áhangendr þessarar stefnu tala sem svo: Guð leitar einungis eftir hinni einstöku sál. Jesús er hirðirinn, sem fer á stað að leita hins eina týnda sauðar. Aftrhvarf og frelsan hinnar einstöku sálar er andans einasta starf. þegar þetta nær fram að ganga, er takmarkinu náð. Sál þessa einstaklings er þá bœtt við hina miklu ósýnilegu kirkju. Sýnilegt kirkjufélag er óþarft. Slíku félagi má enginn láta leiðast til að treysta, né leita hjá því skjóls. Hin einstaka sál verðr sjálf, ein og út af fyrir sig, að vaka og biðja og starfa að því, að varðveita náðarástand sitt. það var þessi andans stefna, sem á dögum fornkirkjunnar kom í ljós í lífi einbúanna og í flótta einsetumannanna út á eyðimerkr. þessi andans stefna kemr líka fram í klaustrlifnaði kaþólsku kirkjunnar. það er þessi skoðun, sem kemr fram þann dag í dag innan vébanda prótestantisku kirkjunnar í óekta guðsótta hjá ýmsum sérþóttafullum einrœningsstefnum, sem hafna kirkjunni og samfélaginu við kirkjuna. þessi skoðun hefir brotizt út í orð hjá danska rithöfundinum, *Sören Kirkegaard*, þar sem hann kemst svo að orði: „Hinn kristni einstaklingr verðr að leitast við að bjarga sjálfum sér yfir veraldarhafið mikla á litlu kœnunni sinni.“ Í setning þessari felst sú skoðun, að kirkjan geti ekkert gjört fyrir trúaðan mann. þegar trúaðr maðr starfar að sáluhjálp sinni, verðr hann „að vera sjálfum sér nógr“. Kristinn maðr verðr að hlaupa skeið sitt á skeiðvellinum einn síns liðs.

því er, guði sé lof, eigi þannig varið. Vér vitum, að drottinn lætr ekki hinn einstaka lærivein einan síns liðs bjarga sér yfir hyldýpi vatnanna. Vér höfum eignazt „kirkjuskipið“. þar eru lærisveinarnir til samans og Kristr er hjá þeim. Hverjum kristnum einstaklingi er að því mikill styrkr í baráttu hans, sem oft og tíðum er næsta ervið, að mega sœkja huggun og ráðleggingar til kirkjufélagsins, sem trúað hefir verið fyrir náðarmeðulunum og margskonar náðargjöfum og lífsreynslu.

Að ending skulum vér enn benda á enn aðra andans stefnu, sem ekki metr mikils þýðing þess að hafa samfélag við kirkjuna sína. það er sú andans stefna, sem metr öll kirkjufélög jafn-mikils. Hún leitar að andlegri uppbygging hvervetna

án tillits til hinnar kirkjulegu játningar. Mörg af börnum þessarar andans stefnu virðast ekki vera knúð af djúpri þörf hjartans, heldr einungis af andlegri forvitni og löngun eftir að heyra hljóm nýrra radda klingja. En ýms þeirra geta líka verið leidd af sannari og dýpri hvötum og verið knúð af einlægri þrá og andlegu hungri. En samt sem áðr getum vér ekki hrósað breytni þeirra. Menn þessir ganga frá borðum á eigin heimili sínu til þess að eta í húsum vandalausra.

það er óþarfi að gjöra hér nákvæma grein fyrir hvötunum, sem þessir menn hafa fyrir breytni sinni. En það mun ekki verða borið á móti því, að þessi andans stefna, sem á marga áhangendr meðal vor, er hvorki í samrœmi við hina postullegu áminning um að yfirgefa ekki sinn eigin söfnuð, né heldr er hún sönn dóttir hinnar evangelisku lútersku kirkju vorrar.

Allar þessar ýmsu andans stefnur, sem vér höfum nú bent á, hjálpast að því að veikja lífsafl eigin kirkjufélags síns.

En með því eyðileggja þær enn meir þýðing kirkjunnar og gagn fyrir sjálfar sig. það er því ekki að furða, þótt þær tali með niðrun og lítilsvirðing um kirkjuna sína og telji sér það opinberlega nærri því til hróss, að þær hafi aldrei orðið varar við nytsemi þess að heyra henni til.

Ef oss langar til að fœra oss sem bezt í nyt sambandið við eigin kirkju vora, verðum vér með aðstoð guðs anda að láta henni í té meira traust, meira þakklæti, meiri viðrkenning, meiri kærleika. Vér verðum að fara að standa henni nær. Látum hina kristilegu og kirkjulegu félagshugmynd fá meiri þroska hjá oss! Efl þú safnaðarmeðvitundina hjá sjálfum þér og efl þú hana hjá öðrum! Hjálpa þú til þess eftir mætti og kringumstœðum að reisa á fœtr aftr safnaðar-agann, sem nú er fallinn í gleymsku hjá oss. Hver einstaklingr kirkju vorrar getr einhverju til leiðar komið, þótt margir sé nú erviðleikarnir. Horf þú ekki með svo hvössum augum á galla og bresti kirkju vorrar. En gef þú heldr gaum að því, hvernig andi guðs er starfandi meðal vor í borg og bœ innan kirkju vorrar. Hagnýt þér útbýting náðarmeðalanna í kirkjunni þinni. Tak þú sem innilegastan þátt í safnaðarguðsþjónustunni. Tak þú líka þátt í líknarstarfseminni, sem á sér stað innan kirkjunnar,

Ef þú gjörir þetta af einlægum vilja og eins og frammi

fyrir ásjónu drottins, munt þú vissulega komast að raun um, að það hefir mikla þýðing og nytsemi fyrir hið andlega líf þitt, að þú heyrir kirkjunni til. Já, einnig þeirri kirkju, sem í mörgu er áfátt eins og kirkjunni þinni. Látum oss ekki þrátt fyrir alla gallana fella þungan áfellisdóm yfir húsinu hennar móður okkar. Að sönnu ber húsið ljós merki vanhirðingar og áfalla. Þakið hefir svignað, veggirnir hallast, múrinn er rifinn. Þó getr það verið vilji drottins, að húsið sé enn þá notað um stund. Og þess vegna skulum vér friða um það, ekki fyrirlíta það, meðan drottinn lætr oss finna hlé og hœli undir þaki þess. Það hefir líka þýðing fyrir komandi tíma.

---

Hr. stud. theol. *Runólfr Marteinsson* frá prestaskólanum lúterska í Chicago hefir verið ráðinn í þjónustu kirkjufélags vors til missíónarstarfs um sumarmánuðina. Í þeim erindum kom hann hingað norðr til Winnipeg í byrjan Maímánaðar og lagði svo nálega undir eins á stað til prestlausu byggðanna út frá Manitoba-vatni. Hann kom aftr úr þeirri ferð um mánaðamótin síðustu. Fám dögum síðar fór hann í sömu erindum til Íslendingabyggðarinnar við Roseau River í Minnesota-ríki norðvestanverðu. Seinna býst hann við að bregða sér snöggvast aftr norðr til Grunnavatns, en það getr þó ekki orðið fyrr en eftir kirkjuþing. Um ferð hans til byggðanna við Manitobavatn höfum vér fengið frá honum skýrslu þá, er hér fer á eftir:

„Eg var 3 vikur og 5 daga á ferð minni um Íslendingabyggðirnar við Manitobavatn og nærliggjandi svæði. Fyrst fór eg um bygðina á vestrströnd vatnsins, þannig, að eg byrjaði syðst og fór svo norðr á enda byggðarinnar, og er það all-langt svæði, víða nokkuð strjálbyggt. Indíana „Reserve“ (eða sérlenda) sker þessa byggð sundr í tvo parta. Úr þessari byggð sigldi eg norðaustr yfir vatn, fór svo norðr á enda byggðarinnar þeim megin vatns, norðr fyrir „Narrows“, og svo suðr á syðsta tanga, sem Íslendingar byggja að austanverðu Manitobavatni. Þaðan var eg keyrðr um 40 mílur suðr í hina svo kölluðu Álftavatns-nýlendu, kom þar á hátíðardag Canada-manna, fœðingardag drottningarinnar, og hitti þar byggðarmenn samankomna á skemmtisamkomu í félagshúsi sínu. Í Grunnavatns-nýlendu

kom eg einnig, og liggr sú byggð 8 mílum austar en Álftavatns-nýlenda.“

„Í þessari ferð hélt eg fjórtán guðsþjónustur. Þrjár af þeim voru fyrir vestan Manitoba-vatn, og var fjölmennust þeirra samkoma sú, sem haldin var í syðra hluta þeirrar byggðar. Á austrströnd vatnsins voru guðsþjónustur í átta stöðum, og voru guðsþjónusturnar þar svo margar fyrir þá sök, að svo örðugt er um samgöngur þar. Land þar er mjög vogskorið af vatninu. Tangar skerast út í vatnið og víkr sumar langt inn í land. Á engum tanganum eru fleiri búendr en þrír,og voru því sjaldnast fleiri en þrjár fjölskyldur, sem gátu komið saman á einum stað. Sumsstaðar prédikaði eg yfir einni familíu. Í Álftavatnsnýlendu kom fólk saman úr allri byggðinni í félagshúsinu. Þar hélt eg samkvæmt ósk þess tvær guðsþjónustur, aðra á fimmtudaginn 26. Maí, en hina á hvítasunnudag. Síðari samkoman var hin fjölmennasta í allri ferðinni, og voru þar flestir byggðarmenn saman komnir. Í Grunnavatns-nýlendu hélt eg guðsþjónustu föstudaginn 27. Maí.“

„Íslendingar tóku mér vel hvar sem eg kom og gjörðu sér mikið far um að hjálpa mér eftir megni, og höfðu þeir stundum mikið fyrir því að flytja mig langar leiðir án endrgjalds. Málefni kristindómsins virtist mikill meiri hluti manna vera mjög hlynntr; og nokkra mætti nefna, sem hafa talsverðan áhuga fyrir því að mynda söfnuði og starfa í sameining við kirkjufélag vort. Það yrði of langt hér upp að telja alla þá, er sýndu mér velvild og velgjörðir. Eg læt mér því nœgja að minnast með þakklæti allra hinna mörgu, er sýndu það í verkinu, að þeir vildu styðja að útbreiðslu og viðhaldi kristindómsins.“



Missíónar-ferð fór séra Jónas A. Sigurðsson til Íslendingabyggðarinnar við Mouse River í Norðr-Dakota skömmu eftir miðjan Aprílmánuð. Þar var myndaðr söfnuðr síðastliðið sumar, Melanktonssöfnuðr, eins og um er getið í „Sam.“ XII, bls. 95, sem nú sœkir um inngöngu í kirkjufélagið. Séra Jónas kom þangað vestr 19. Apr. Við opinbera guðsþjónustu, sem haldin var degi síðar, síðasta vetrardag, fermdi hann 6 ungmenni, og hafði hr. Þorsteinn Jóhannesson í vetr, sem leið,lesið með þeim til

fermingarundirbúnings. Hann skírði enn fremr í þessari ferð 7 börn og talaði yfir 3 leiðum. Við guðsþjónustuna voru 20 manns til altaris. Guðsþjónustan fór fram í nýju samkomuhúsi, er byggðarmenn voru að ljúka við að reisa um það leyti.

Kirkjunum nýju í Hallson og í Pétrssöfnuði þokar stöðugt áfram—eftir því, sem séra Jónas A. Sigurðsson hefir ritað oss. „Þeir Guðmundr Eiríksson og Jóhann Pétr Hallsson gleyma þeim ekki. Hinn síðarnefndi hefir ofan á allt áðr gjört gefið altari og stól til kirkjunnar í Hallson. Innansmíð kirkju Pétrssafnaðar er nú lokið, og verðr bráðlega byrjað á að mála hana innan.“

„Auk þessa“, ritar séra Jónas, „hefir kirkja Vídalínssafnaðar verið endrbœtt og nú nýlega fengið að gjöf frá bandalagi safnaðarins fagrt altari 17 fet á hæð og 8 fet á breidd, er kostaði nál. 160 doll. Mun það eitt með hinum snotrari ölturum, sem til eru hér í sveitakirkjum.“



Í prestakalli séra Friðriks J. Bergmanns hafa á þessu vori verið fermd 42 eða 43 ungmenni: 18 í kirkju Garðar-safnaðar, 12 á Mountain í kirkju Víkrsafnaðar og 12 eða 13 í kirkju Þingvallasafnaðar á Eyford. Fermingin á Garðar fór fram á skírdag, en á Mountain á páskadaginn, og á Eyford á hvítasunnudag.

Í prestakalli séra Jónasar A. Sigurðssonar fóru fermingar fram um páskana, og tala fermingarungmenna þar 48, nefnilega 18 í kirkju Vídalíns-safnaðar, 11 í kirkju Pétrssafnaðar, 8 í Pembina-kirkju, 3 í Grafton, 8 í Hallson. Auk þess fermdi séra Jónas 6 ungmenni í Mouse River byggðinni í missíónarferð sinni þangað eins og að framan er um getið.

Í söfnuðum þeim, sem séra Oddr V. Gíslason þjónar, hefir hann í vor fermt alls 42 ungmenni, nefnilega 5 í Árnessöfnuði eða Árnesbyggð, á 1. sunnud. í föstu og 2. sunnudag eftir páska (við embættisgjörðir á Skíðastöðum og skólahúsi), 10 í Fljótshlíðarsöfnuði eða Efri Fljótsbyggð (í skólahúsinu þar) á skírdag, 4 í Mikley á pálmasunnudag og hvítasunnu í kirkjunni þar, 16 í Brœðrasöfnuði við Íslendingafljót í skólahúsinu þar 3. sunnudag eftir páska,—alls 35 í Nýja Íslandi,—og 7 í Selkirk 1. sunnudag eftir páska í kirkju safnaðarins þar.

Í Fyrstu lútersku kirkju hér í Winnipeg voru á hvítasunnudag fermd 39 ungmenni. Og þann dag voru í þeim söfnuði nálægt 240 manns til altaris. Sama dag fermdi séra Jón J. Clemens í kirkju Argyle-safnaða 40 ungmenni tilheyrandi þeirri byggð.

Altarisgöngur hafa víst eigi lítið aukizt í söfnuðum kirkjufélagsins, sumum að minnsta kosti, nú í seinni tíð. Þannig hefir séra Jónas A. Sigurðsson skýrt oss frá, að í sínu prestakalli hafi þær á þessu síðasta ári verið með lang-fjölmennasta móti; hátt á 4. hundrað þar til altaris í vor, 30—40 *pro cent* meira en í fyrra.

Um fermingar og altarisgöngur í söfnuðum þeim, er séra Björn B. Jónsson þjónar, er getið í Apríl-nr.i „Sam."

---

Séra Jónas A. Sigurðsson, skrifari kirkjufélagsins, hefir tekið sér fyrir ferð heim til Íslands. Hann lagði á stað frá heimili sínu (við Akrapósthús í Norðr-Dakota) á hvítasunnudagskvöld 29. Maí, fór með járnbrautinni frá St. Vincent í norðvestrhorni Minnesotaríkis suðr til Minneapolis, þaðan til Chicago og þaðan austr til New York. Þar tók hann sér far austr yfir Atlanzhaf til Liverpool með Cunard-línu-skipinu *Lucania* laugardaginn 4. þ. m. Í Skotlandi ætlaði hann að ná í *Thyra*, og fara með því skipi austr og norðr um Ísland til Skagastrandar. Því þar í nágrenninu, í Húnavatnssýslu miðri, er ættfólk hans, sem hann fyrst og fremst ætlaði sér að heimsœkja. Hann bjóst við að verða eina fimm mánuði í þessari Íslands-ferð. Vér óskum og vonum, að ferðin verði honum ánœgjuleg og að drottinn leiði hann heilan á hófi hingað aftr vestr til vor. Til burtferðar frá Íslandi stígr hann að líkindum í skip í Reykjavík.

---

*Illustrated Home Journal*, sem áðr hefir verið getið í blaði þessu, heldr áfram að koma út í St. Louis, Mo., í sama prýðilega búningnum og frá upphafi. Útgefendrnir eru The Louis Lange Publishing Co. Myndirnar í ritinu eru margar og góðar, og í hverju númeri ein aðal-ritstjórnargrein, ágætlega rituð, um eitthvert mikilsvarðanda mál í sögu nútíðarinnar eða liðinna alda. Sannkristilegr andi ræðr í öllu, sem tímarit þetta

kemr með. Hátíðanúmerin, sem út komu um áramótin síðustu og páskaleytið, eru sérstaklega prýdd, full af ljómandi myndum úr hinni helgu sögu. Árgangsverðið er að eins 1 dollar hér í Ameríku. Sem flestir Íslendingar, er lesa ensku, ætti að halda þetta tímarit.



Oss hefir gleymzt að geta þess þangað til nú, að útgefendr að blaðinu „Verði ljós!“ eru aftr orðnir þrír eins og í upphafi. Hr. *Haraldr Níelsson*, guðfræðiskandídat, hefir verið með þeim séra Jóni Helgasyni og Sigurði P. Sívertsen í ritstjórn og útgáfu blaðsins síðan í byrjan þessa árs. Um sama leyti hætti „Kirkjublaðið“ að koma út.



Í viðbót við áðr taldar prentvillur í *Aldamótum* VII er þessi á 32. bls.: „*horfa*—í staðinn fyrir *hörfa*—aftr til baka inn í gömlu íslenzku þokuna.“

---

Hr. *Jón A. Blöndal,* 207 Pacific Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam.“

---

Hr. *Björn T. Björnsson,* 148 Princess St., sendir „Sam.“ út.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.